[Þess íslendska evangeliska smábóka félags rit No. 34.]

# Fiarhyrdirinn Jósep.

Utlagt úr dønsku af Utgéfaranum.

Fyrir nockrum árum misti únglíngs dreingur í Þydskalandi foreldra sína. Bóndi einn tók þá þennan munadarleysíngia til sín, og ól hann upp, og hafdi hann til ad vakta búsmala sinn, en vanrækti øldúngis ad kénna hønum Guds ord. Ox hann svo upp hreint uppfrædíngarlaus. En dreinginn lángadi þó til ad læra. Hann stundi opt þúngann, þegar hann sá ønnur børn fara til uppfrædíngar, og sagdi: æ ad eg mætti fara med yckur! Luckulig erud þid, ad fá ad læra nockud. Loksins heynadist hønum ad fá eitt stafrofsqver. Bad hann þá adra dreingi, sem í haganum vóru, ad kénna sér ad þeckia stafina, og festi þad vel í minni. Svo kéndu þeir hønum líka ad stafa og kveda ad, svo hann loksins lærdi sæmiliga ad lesa á bók, án þess ad yfirgéfa nockurntíma hjørdina.

Nú betladi hann sér út gamla Gudspjallabók. Hana hafdi hann med ser úti hagann, las hana med hiartans girnd, og fékk svo nád nockurri þeckingu á trúarinnar lærdómum. Fiárbóndi nockur tók hann sídan til sín, til ad gjøra úr hønum gódan fjárhirdir. Þessi hafdi betra augnamid, enn sá fyrri húsbóndi hans, þótti vænt um lærdómsfýsi piltsins, hjálpadi hønum til ad eignast Biblíu, lét hann sídan ydugliga sækja kyrkju og framast í øllu gódu. Af þessu græddi Jósep ei alleina ágjæta þeckingu, heldur færdi hún og ávøxt í hjarta hans. Kostgjæfiliga bad hann Gud um adstod heil. anda, og med því móti uppsprett christiligt og gudligt sinni í hans sálu. Hann syndi einnig óræk merki til þess í lifnadi sínum.

Því, til dæmis, þegar hann eptir nockur ár lidin vard vistlaus, svo hann hlaut ad gánga um, og beidast, ad einhvør bóndi tæki sig fyrir smálamann, þá kom hann loksins til eins christiliga sinnads bóndamanns, er Skrøder hét. Og þá Jósep spurdi hann, hvørt hann ei þyrfti vinnumanns vid, svaradi hinn: nú í stad þarf eg hans ecki. En — hvør ert þú? og hvadan ertú? Þá sagdi Jósep hønum inntak æfisøgu sinnar. Bónda gédjadist hún svo vel, ad hann gjarnan æskti ad fá hann til vistar; og sagdi: heyrdu, kjæri! sem stendur er mér ad sønnu ecki málamanns vant, en vertú hjá mér! eg held

vinnumann sem mér líkar ecki vid; þú skalt fara til mín í hans stad. Ef svo er, svaradi Jósep, þá vertú sæll; Gud gjæti þín! Fyrir mína skuld má einginn úr vist rekast. Sá Gud, hvorjum eg treysti, hefir híngadtil sjed fyrir mér; og í því sama fór hann sinn veg. Bóndi, kalladi eptir hönum og sagdi: heyrdu mér Jósep! Hann svaradi: Nei, nei! Gud veri med þér og fér sína leid. Skamt þar frá féck og Jósep góda vist. Bóndinn sagdi Barnakénnaranum þar í sókninni, frá samtali sínu vid Jósep. Slíkt kann madur ad kalla sannan Guds ótta og rótfest traust á hans forsjón, sagdi kennarinn. Já, ad vísu, svaradi Bóndi; en géck hann þó ecki of vídt? Nei, sagdi kénnarinn: Þad er Guds bodord: »þú skalt ecki girnast þíns náúnga kvinnu, þjónustufólk og s. fr. Já, ecki girnast, svaradi Bóndi; þad er þó nockud annad. Því Jósep beyddist ecki, ad eg léti mann úr vist fyrir sína skuld; en eg baud hönum þad. Kénnarinn svaradi: ad vísu; í því tilfelli hefdi hann vel kunnad ad taka í móti tilbodi þínu, sér ad syndlausu; en þar hann fann til brýslis med sjálfum sér yfir því, ad annar væri látinn burtu fyrir sínar sakir, þá var þad betra, ad hann þádi þad ecki. Og þetta syndi stóra rækfemd til rádvendnis hans og samvitskusemi. Med gódu hjarta kann hann nú ad þjóna þar sem hann er; og þad mun víst fara vel fyrir hönum; því Guds blessan fylgir

Þollíkkri hegdun. Þeir þar á móti, sem á ránga an edur ecki regluligan hátt, ødlast nockra lucku, finna aldrei það sem þeir eptirsækja. Eg hefi þeckt marga, sem með því að nidra ødrum hafa komist í vist edur til embættis og þelsþáttar; en hafa samt ei fundið þá lucku edur ánægju, sem þeir eptirvæntu. Annaðhvørt hafa þeir þá ecki náð hylli sinna yfirbodara, ecki þeim launum edur ødru, sem þeir viðbjuggust; og stundum varð þess ei leingi að bída, að þeir með gremju hlutu að fara aptur úr vist sinni, skilja við brauð sitt og so fr. og høfdu svo ofan í kaupið nagandi samvitsku, fyrir það þeir hefðu svo illa að ráði sínu farið. Margur húsbóndi, sem sá trúmennsku og dugnað vinnuhjús nágranna síns, leitadist við að locka það frá hønum og seigja: "farðu til mín, eg skal gjalda þér meira kaup, þú skalt eiga betra hjá mér og s. fr." hafi hønum nú luckast að tæla það til sín, ávann hann samt opt ecki það, sem hann viðbjóst. Hjúið átti þá ecki við hans geð að øllu, og reyndist hønum ecki sem hinum fyrra húsbónda. Hvað því olli, kann eg ecki að seigja, en það fór þó svo; það hepnadist ecki; hvørigur var ánægður, hvørki húsbóndinn né hjúið. Svona er því varið: Guðs blessan fylgir aldrei óráðvendni. Ødruvísi fer það, þegar allt skédur með hreinskilni. O, hvørsu mikið stodar það til rósemdar í lífsins bilteingum, að maður ei þurfi að bríxla sér um áseitníngs

brekvísi. Bóndi svaradi: Mig furdar þó allan yfir Jósep, ad hann, án uppfrædíngar, skuli hafa komist svo lángt í rádvendninni.

Já, sagdi kénnarinn, þad er ad vísu undraverdt; en þad er líka eptirtektaverdt dæmi, og þar hjá sterk rəksemd þess, hvad Guds ord megnar ad verka í hreinskilnu hjarta. Hann hefir ecki lesid adrar bækur enn Biblíuna, og komist þó svo lángt. Til þessa hafa menn og fleiri dæmi. Hinn sæli Lúther, þó hann væri annars vel lærdur madur, sýnir oss, hvad Guds ord sær verkad í slíku hjarta. Eda hvadan hafdi hann sína þeckíngu, sína trú, sína djərfúngu, sitt stəduglyndi? var þad nema af Biblíunni, hvørja hann med svo mikilli girnd og gledi lesid hafdi? Bóndi svaradi: Satt er þad; en hvad veldur því, ad þó hafa enn nú svo margir ama og uggæ á Biblíu lestri? Nýliga heyrdi eg jafnvel sagt, ad þeir sem læsu í Biblíunni, yrdu narrar, grillumenn og s. fr. Ad vísu má því ei neita, sagdi kénnarinn, ad Biblíuna getur madur og lesid sér til skada. Hvør hlutur, hvad gódur sem er, só hann ei réttiliga brúkadur, og eins og ber, verdur hann skadligur. Besti læknisdómur getur ordid ad eitri, ef hann er misbrúkadur. Vid lestur Biblíunnar rídur mest á sinnislaginu og tilgánginum, sem madur hefir, þegar hann les. Med audmjúku, trúudu, siálfsafneitunar- og kjærleiks-fullu hjarta, á Biblían ad lesast, til

ad þeckja Guds vilja, til vorrar sáluhiálpar og til ad hlýda honum og fylgja. Slíkur lestur gétur aldrei gagnlaus ordid, og allra sídst skadligur; einkum nær honum fylgir hjartanlig bæn til Guds, um hans heil. Anda upplýsíngu og adstod. Já, svo hlýtur þad at vera, svaradi Bóndinn, og mér þykir vænt um ad Jósep er hér í nágrenni, svo eg géti komist ad, hvørnig hann hegdar sér framveigis.

Ad nockrum tíma lidnum frétti Bóndi, ad Jósep hefdi tapad hylli húsbónda síns. Því þegar hann hafdi skipad Jósep ad reka búsé sitt, í haga þann, sem hann ei átti (eins og sumir órádvandir gjøra), ad fornspurdum eiganda, en sér til ábata, hafdi Jósep færst undan ad gjøra þad, seigjandi: "þetta er ecki rétt, sá gódi Gud vill þad ecki. Hann vill ecki láta neinn leita sér hagsmuna ólrj lÿliga, eda gjøra ødrum skada." Húsbóndi hans gjaldt þøgn vid tali hans, en þycktist þó undirnidri.

Líka svo komst Jósep í ordaskipti vid annan vinnumann á sama heimili. Vinnumadurinn eyddi meira fódri til fjárins, en húsbóndinn ágvardad hafdi. Jósep komst ad þessu, og sagdi: "heyrdu Marteinn; þetta er ecki rétt; þú mátt ecki gjøra þad!" Narrinn þinn! svaradi Marteinn, eg tek þó eckert handa sjálfum mér, heldur handa sé húsbónda mins. "Þad er samt óhlydni, sagdi Jósep, og þjónunum ber ad vera hlydnum

í öllu því, sem ecki stríðir móti Guðs boði.“ Hvør vill gjøra sér samvitsku út af slíku smá-ræði, svaraði Marteinn; en Jósep ansaði: „Þetta virðist þér nú smáræði, en hugsaðu til þess, að þú átt að elska húsbónda þinn; en ef þú elskar hann, viltu þá olla hønum meins og gremju? Því úmindaða þér: húsbóndinn hefir sett reglu-liga á, og veit hvað til hvørs málsins þarf; heldurðu að hann verði þá ecki hugsjúkur, þegar fóðrið hrøckur ecki að lokunum? Þykistú þá hafa sýndt hønum tilhlýðiligan kjærleika; og gøturðú látið þér eckert þykja varið í brýsli samvitsku þinnar, þegar hún ber þá fyr á þig, að þú sért þessa öllandi?“ Nú svaraði Marteinn, hvør ætli gjéti verið að þeinkja svo víðt út í þetta! Jósep svaraði: „Það er samvitskuleysi, ef þú set-ur ecki þesshättar á þig; og þar kémur visguliga sá tími — en kannské ofseint — sem þú með bitru ángri hugsar eptir því.“ Þessa Søgu sagði Bóndinn Skrøder aptur. kénnaranum, og bætti því við: þetta kalla eg ráðvanda kristiliga sálu! gjæfi Guð að hann héldi áfram hegðun þessari allt til enda! hvørsu farsæl mun þá fyrir Guðs náð, eylífðin verða hønum!

Eptir nockra daga liðna kom Marteinn áng-urbitinn og stúrandi til Jóseps og sagði: „æ, kjæri Jósep! hvað skal eg nú til gjøra? Eg er vond manneskja, sem lengi hefi syndinni þjénað; eg hefi ecki skeitt um Guð né vilja hans, og eg

hefi mi fidótrúr verid. Gud komi til; til hvilíks straffs hefi eg unnid!» Jósep svaradi: „þad er ad vísu íllt ad þú hefir slíkt athæfi ydkad, en gott er hitt, ad þú geingst vid því. Ef þú nú af alvöru ángrast út af misverkum þínum, og af innsta hjartans grunni æskir, ad þú hefdir ei framid þaug, og vilt hér eptir leggja af allt ránglæti, svo eru gód úrrædi fyrir þig. Því einmidt til þess kom Jésús í heiminn, ad þvílíkir syndarar, sem þú ert, géti feingid fyrirgéfníngu hjá Gudi.“ Ut af þessu spratt fylgjandi samtal þeirra á milli.

Marteinn seigir: æ, eg hefi þúngliga syndgad! gétr Gud fyrirgéfid mér? Jósep svarar: „þegar þér er rótgróin alvara, þá er þar eingin efi á! Lestu 15da Cap. hjá Gudspjallamanninum Lúcas! hugsadu til eptirlíkíngarinnar um þann góda hyrdir, sem leitadi ad sínum tapada saud, fann hann og bar hann svo med gledi heim á herdum sér! Þú ert nú saudur sá, er villst hefir frá hyrdir þínum. Jesús hefir leitad þín, og finnur þig, ef þú flýr ecki frá honum. Særi þig alvarliga straffsmakligleiki synda þinna, og viljurdu hér eptir leggja þær af, þá hefir Jesús fundid þig. En komdu þá til hans med trúnadartrausti og bid hann miskunar! med gledi mun hann taka á móti þér, fyrirgéfa þér þær, og gjöra þig réttlátan og sáluhólpinn.“ Marteinn svarar: Gud giæfi eg gjæti þessu trúad! Jósep

sagdi: „Því máttú vel trúa, því það stendur berliga í Biblíunni. Þegar Gydíngar fordum á Hvítasunnuuni skíriduft vid predikun Péturs, og ángruðust út af því, að þeir krossfest höfðu lífsins hertoga, og spurdu þessvegna; þér menn og brædur! hvað skulum við tilgiera? þá svaradi Postulinn: snúið ydur, og sérhvör medal ydar láti skíra sig, í nafni Jesú Christí til syndanna Fyrirgéfníngar, og þá munuð þér fá heil. Anda! (Gb. 2, 38.). Sömuleidis sagdi Páll til Fángelsis vaktarans, þá hann spurdi: hvad skal eg giera, svo eg verdi sáluhólpinn? Trú þú, sagdi hann, á Drottinn Jesum Christ! svo verdur þú hólpinn og þitt hús!" (Gb. 16, 30 31).

Marteinn svarar andvarpandi: O Gud! vertú mér syndugum líknsamur! Jósep ansadi: „Það mun hann víst verda þér! hugsadú adeins til þess, hvörsu hann medtók tollheimtumenn og syndara! heyrdú hvörsu glaðliga hann sagdi við Zachæum og hans hús: Í dag er húsi þessu heilsa skén! Athuga þá náð, med hvörri hann huggadi Magdalenu! Þeinktú til sálmsins, sem vér syngjum.

Syndarinn einginn svo stór er," ad sáluhjálp kunni, ei ná;" Christur Jesús þá kénníng lér," kunnur er vegur sá." Ydrun hvör sanna í brjósti ber," og betrar sig allt hvad má," leitandi' í trúnni líknar sér;" lífgjöf mun vissa fá."

Vid fleiri þesshättar opt ítrekud samtal,

komst Marteinn um sídir svo lángt, ad hann þordi ad trúa þessum guddómligu fyrirheitum, og hugga sig vid vonina um sinna synda fyrirgéfníngu. Og hvörsu aldeilis annar madur vard nú Marteinn, upp frá því! hvílíkan viddjód hafdi hann nú á öllu því sem órétt var! hvörsu sókti hann nú eptir því góda, og hvörsu gladur vard hann, nær þad luckadist! hvílíkur Guds fridur uppfyllti þá hans hjarta!

Nú rádfærdi hann sig opt vid Jósep um hitt og þetta, til ad géta hegdad sér, fyrir Gudi og mönnum, eins og bæri. Og Jósep svaradi hönum út af Ritníngunni.

Hún var sú bók, af hvörri Jósep aufid hafdi alla sína þeckíngu, og til hennar leiddi hann sömuleidis þann lærdóms-fúsa Martein. Eitt sinn greip Martein megn sinnis óróssemi út af því, ad hann hefdi svo opt ádur gjördt húsbónda sínum rángt til, og svikid hann, hönum til skada. Jósep sýndi hönum þá út af Bibliunni, ad sönn umvendan útheimti Endurgjald; »því sýsin, sagdi hann, hlýtur burt úr sárinu, annars læknast þad ecki." Gud komi til, sagdi Marteinn, þad er mér aldeilis ómögnligt! hvörnig skal eg betala þad allt! »þá vil eg léggja þér gott ráð" svaradi Jósep; "ef þér er ómögnligt ad betala, þá farðú til húsbónda þíns, og vidurkénndu, ad þú opt hafir gjört á hans hluta, og bidtú hann

að fyrirgéfa þér það. Gjöri hann þá þetta, þá gétur þu gjørdt samvitsku þína róliga fyrir Gudi, og þá muntú þess betur á eptir kappkosta, að vera húsbónda þínum hollur og gagnligur, þegar þú hugleidir, að þó þú ecki gjætir goldið hønum skaðabætur, þá fyrirgaf hann þér samt." Marteinn seigir: Eg sje að í þessa sök er mikið varið, en ærið þúngbært að leysa hana af hendi. Jósep svaraði: »að vísu er það þúngbært, en líka sælusullt, og hefir bestu afleidslu. Hugsaðú til Zachæum, sem ogsvo gjørdi hafði margum rángt til. En hann gat borgað það, og gjørði það líka. Hafi eg af nockrum haft sagði hann, þá géldt eg ferfaldt aptur. Og þar hann vissi sig hafa gjørdt fleirum óréttt, enn hann tilmundi, bætti hann því við: helmínginn af gótsi mínu géf eg fátækum! og þá braust Jesús út með þessi orð: í dag er þessu húsi heilsa skén (Lúc. 19, 8 9.) æ minn bródir! gjættú að hvað réttsýní og fromlyndi eru ágjæt fyrir Gudi, og ávøxtur sannrar umvendunar. Marteinn fylgdi Jóseps ráðum, og féck þar af fulla rósemi, og þénti svo húsbónda sínum með stakligri trúmensku þar eptir.

Þó bar það eittsinn við, að húsbóndi hans vildi senda hann til einhvørs erindis lángt í burtu, en þessi lánga reisa var ei eptir Marteins gédi, og þann qvartaði yfir því við Jósep. Hann setti strags upp fyrir hønum feim 6ta Cap.

Páls bréfi til Ephesiskra! "hjá þú, sagdi hann, svona talar sá gódi Gud, því allt þad sem hér stendur, er Guds ord: þér þjónustumenn, verid hlýdnir ydar likamligu Húsbændum, med ótta og titrun, í einfaldleik ydvars Hjarta, svo sem Christó. Ef þad nú væri Jesús sjálfur, sem skipadi þér ad fara ferd þessa, vildir þú þá ecki gjöra þad? og nú ertú skyldugur ad þjóna og hlýda húsbónda þínum, eins og þad væri Christur, og þessvegna máttu ecki veigra þér vid þessu. Ritníngin skipar líka: ad þjóna med fúsu gédi; fardu þessvegna strags og fardu med gledi og gódum viljal og hugsadi til þess, ad þad er Gudi þacknæmt, nær þú hlýdir þíns húsbónda bodi.» Marteinn sá nú ad Jósep hafdi rétt fyrir sér, fór og mælti eckert á móti.

Þá hann var nú kominn úr ferdinni til baka, héldt Jósep samtalinn áfram vid hann og sagdi: »Þad þjónustufólk er til, sem gjörir skipan húsbænda sinna, rétt á medan þeir eru uppi yfir edur á medan þad hugsar þeir géti vitad, hvad þad adhe.st; en nær þad hugsar, ad breytni sín ecki komist upp, er þad latt og hyrdulaust, edur gjörir einhvad annad, enn því skipad er. Slíkt er augnaþjónusta, vid hvörri Gud varar í ordi sínu, seigjandi: þér þjónar, verid ydar líkamligum Herrum hlýdnir í öllum hlutum; ecki med þjónustu fyrir augun-

um, svo sem þeir er vilja mønnum góðgjast, heldur í hjartans frómleika, með ótta fyrir Guði. Allt hvað þér hafist að, gjørið það af hjarta, sem fyrir Drottins augum, en ecki mannanna; og vitið, að þér munuð til umbunar fá erfðapart hjá Drottni, því þér þjónið Herranum Cristó (Col. 3, 22 24). Þar fyrir, minn góði Marteinn! þó eingin manneskja sjái þig, þá sjer þinn æðsti Herra þig; og hann mun þér endurgjalda."

Eptir þetta einusinni komst Jósep að því, að Vinnustúlka þar ein í húsinu færði smámsaman nockuð móður sinni, sem ofurfátæk var; og var það í fyrstu ecki annað, enn það sem Stúlkan dróg af mat sínum. Hún borðaði, til dæmis, brauð sitt þurt, til að færa móður sinni smjørið, sem henni var géfið við. Opt neytti hún ecki kjøts þess, sem hún féck, heldur færði það sinni móður. Þessari umhyggjusemi fyrir sinni fátæku móður hrósaði Jósep mikiliga, og sagði: "í Drottins orði stendur: að endurgjalda foreldrum sínum, það er gott og Guði þacknæmt» (1 Tim. 5, 4) En síðar meir féck Jósep vitneskju um, að hún og svo tók eitt og annað smáveigis frá húsbændum sínum, og laumaði til móður sinnar. Til þessa gat hann ecki afskiptalaus vitað. Hann tók þessvegna Stúlku þessa eittsinn á eintal, og sagði: "heyrðu, þetta

máttú ecki gjera; frá þínum húsbændum máttú eckert taka. Það er ránglæti, og sæmir alls ecki christnum» Hvaða látum, svaraði Stúlkan, húsbændum mínum dregur það eckert, og móður minn þarf þess mikla framar við, enn þaug. "Satt kann það vera, svaraði Jósep, og eg yrði mikils umhyggju þína fyrir móður þinni, eins og þú veist; enn til þess að vera ótrú þeim sem þú þjónar, má umhyggja sú ecki afvegaleiða þig; þá hættir hún að vera dygð, og verður jafnvel að lesti. Otrúskapur er alltíð skömm í sjálfum sér. Heyrðu hvað Guðs orð segir um þetta! svoleiðis stendur í pistl. til Tít. 2, 20: áminn þjónustufolkið, að það ecki sé svikullt, heldur sýni trúskap í öllum greinum, svo það prýði lærdóm Guðs vors Frelsara. Trúmenskn sýnir hjúið, nær það dregur eckert frá þeim sem það þjónar, nær það gjörir Verk sitt með kostgjæfni, eptir þeirra gëði, lítur eptir þeirra gagni í öllum hlutum, sem væri það þess eigið, og ecki með baktali uppljóstrar brestum þeirra, til að sverta þeirra góða nafn og rikti, já leitast í öllu við með hreinskilni að uppfylla skyldu sína og loforð. Eða, seigðú mér, hvort þú, þegar húsbóndi þinn réði þig til sín, lofaðir að draga nockuð frá honum af eigum hans? Og — máttú þá ecki skammast þín með sjálfri þér, þegar þú veist á þig, að þú breytir móti skyldu þinni, og þínu loforði? Hvorsu

ó1ólig mátti þá ecki lifa? Ef húsbóndi þinn kjæmi einhverntíma ad þér, þegar þú værir ad hnupla, þá hefdir þú mist hans hylli og kjærleika; samt er hilt enn nú meir svarid, ad þú med þessu móti tapar víst Guds nád og vinúttu. Honum gétur alls ecki líkad ad sjá uppá óráskap þinn, heldur hlýtur sem réttlátur herra, ad straffa hann. Ertú þá ecki óluckulig og aumkunarverd manneskja! Eg bid þig þessvegna, gjördu þetta ecki optar! en þar á móti vil eg leggja þér gott ráð, hvörju þú skalt fylgja! Þar ed þú ber svo mikla umsorgun fyrir módur þinni, þá farðú til húsbænda þinna, taladú vid þaug, og segdú þeim frá báginduin hennar, og bid þaug ad þú megir géfa henni hitt og þetta smávegis. Gott ord finnur gódan stad. Og á þann hátt heldur þú kjærleika þeirra og hylli; og er þér þad sönn æra og luckuviti. Hvörsu gott er þad ecki, nær þú gétur í sannleika sagt: eg er sú manneskja, sem adrir meiga trúa, og reida sig uppá! Þetta er hin sanna æra, hvörri ad fylgir sú innvortis tilfinníng, er eg ei vildi skipta vid eina kóngs kórónu; því þá má madur líka reida sig uppá Guds nád og vænta hans blessunar.»

Þetta tal Jóseps færdi gódan ávöxt; stúlkan fór ad rádum hans, og svo géck allt ágjætliga til. Hún var mörg ár í vist sinni, og húsbænd um hennar líkadi vel vid hana, og módir hennar féck styrk til ad lifa af.

Einusinni kom Jósep á tal við vinnumann, að nafni Gottleif, sem var hjá öðrum bónda. Þessi var mikið gramur og reiður uppá húsbónda sinn. Hann hafði nefniliga breytt ósæmiliga við vinnumanninn, og þessi vildi því hefna sín, og á allan hátt gjöra honum skaða og skapraun. »Þetta máttú ekki gjöra, sagði Jósep til hans, þar af hefir þú sjálfur einga æru hjá mönnum, en allra síst hjá Guði.» Nú hvað, svaraði Gottleifur, svoleiðis gét eg þó ekki, fyrir neitt, látið fara með mig. Jósep svaraði: »það er víst að sönnu ekki gott, að húsbóndi þinn gjörir þér órétt, en það géfur þér samt einga heimild til að gjöra honum órétt aptur» Gottleifur sagði: máské eg eigi þá að láta mér lynda, hvernig sem með mig er farið! »Ney, víst ekki það, svaraði Jósep; en gjörðu að eins það að verkum, til að frelsa æru þína, sem staðist gétur með góðri samvitsku. En þegar þú sýnir ótrúskap og prettvísi, þá frelsar þú ekki þar með æru þína, heldur hreint tapar henni. Og þegar hann gjörir þér órétt, og þú gjörir honum órétt í staðinn, hvað ertú þá betri enn hann? Verri ertú jafnvel; því sem þénara sómir þér enn nú miður að vera ótrúr og óðæll." Gottleifur svarar þá: en á þá ekki húsbóndi minn að finna til þess, að hann hafi gjört mér órétt? Jósep ansaði: »að vísu! en viljir þú með rángri aðferð koma því til vegar, þá hefir þú illa lært þinn Christinndóm.

Guds ord seigir (1 Pet. 2, 18. 20): Þér þénarar, verid Húsbændum ydar undirgéfnir í Guds ótta; ecki einúngis þeim gódu og sanngjörnu, heldur og þeim sérlundudu. Því hvört hrós er (ydur) þad, þó þér þolgir lídid Knefahögg, fyrir þad þér gjörid rángt? en ef þér lídid þolinmódliga, fyrir þad, sem þér gjörid gott, þad ávinnur nád hjá Gudi. Hugsadú nú, Gottleifur minn, um þetta, og stríttu þínum vonda ásetníngi! taladú heldur med skynsemi vid húsbónda þinn, og settu hönum med audmýkt fyrir sjónir, í hvörju hann hafi þér órétt gjördt. Lofadú hönum ad sýna hönum allan mögulingan trúskap, og biddu hann ad breyta vid þig med meiri vægdarsemi. Þá mun allt betur fara; þú munt sanna þad »

Svoleidis var þessi vor Jósep ecki ad eins trúr þénari sjálfur, heldur líka svo blessad verkfæri, til ad frama annara tímanliga og eylífa velferd. En þetta sæla sinnislag hafdi hann feingid einúngis af því, ad hann las ritníngana svo kostgjæfiliga, og ydkadi bænina til Guds. Sídarmeir fór hann í burtu frá þessum sínum húsbónda, sem gaf hönum besta vitnisburd fyrir ráðvendni. Hvört hann sídan fór er oss ókunnugt um; og — hvört hann lifir enn nú; vitum vér ecki; en ef svo er, þá er meiníng vor, ad

hann sjálfur sé ordinn húsfadir. En lifi hann nú, og hegdi sér med sömu rádvendni og Guds ótta, hvörsu miklu gódu mun hann þá til vegar koma.

Já, hvílíkt sæla bídur hans þá í eylífdinni! þegar allir þeir, sem hann hefir hér til umvendunar leidt, þacka hönum þar og blessa hann, fyrir hans kiærleiksverk! Hvör fær ímindad sér hans sælu!

Hvör sem nú heldst ellkar sjálfan sig, og nockra áhyggju ber fyrir frelsi sálar sinnar — hvört sem hann er yfirbodinn edur undirgéfinn — hann fari þá eins ad rádi sínu, sem Jósep! Lesi hann heil. Ritnínguna! en lesi hann hana med audmýkt og bæn! þá mun hann í henni finna ljós fyrir sinn skilníng, og líf fyrir sitt hjarta; já, mun verda sjálfur ljósins barn hér, en lífsins erfingi sídar. Gud géfi sérhvörjum þar til sína nád í Jesú nafni!

---

## Nockur dæmi uppá Lúthers einstöku Hugprýdi.

Í voninni til Drottins, sem í mörgum ödrum christiligum dygdum, var Lúther einhvör hin mesta hetja. Pad syndi hann med þeirri óvenjuligu djörfúngu, ad hann í Guds nafni vogadi ad takast á hendur Trúarbragdanna hreinsunar-

verk, enda þó hann sæi ecki út yfir þær megnu hindranir, er hömum mæta hlytu; líka med því óveikanliga stödugliyndi er hann héldt því fram, midt í þrautum, ofsóknum og lífshættum. Til líns hetjuliga traustš á Gudi, og til sinnar hugdjörfu ofurgéingar undir hans vilja, syndi hann, í mörgum tilfellum, ljósustu og áhrífanligustu merki.

Hann reisti eittsinn til Augsborgar, án öhults fylgdarlids, til ad halda samtal vid Páfans fullmektuga, ad nafni Kajetan. Hönum var af mörgum fyrir sjónir sett, hve reisa sú yfirmáta hættulig væri; en hann, fullur af öruggri dirfsíngu og von til Guds vardveitslu, svaradi: „Eg veit ad eg er Jesú Christi Skuldunautur, hver máske líka segi nú til mín: eg vil syna þér, hvörsu mikid þú lída skalt, fyrir mínar sakir! Því meir sem þeir ógna og æda, því hughraustari er eg! Fyrir forsorgun konu minnar er sjed; minni jördu, húsi og eignum er rádstafad; mitt nafn og æra gétur og svo vel af komist; svo er þá eckert eptir, nema minn veiki og vesæli kroppur. Vilji þeir taka hann í burtu, þá kunna þeir ad vísu ad stytta lífdaga mína um nockra fáeina tíma, en sálina géta þeir aldrei tekid"

Sömuleidis reisti hann og svo í trausti Guds, med óskélfdu hjarta til stadarins Vorms, jafnvel óvinir hans veittu hönum eptirsær, og

Páfans bannfæríng óttaði hønum með forsmán, fángelsi og dauða. Hann svaraði vinum sínum, sem réðu hønum frá reisu þessari: «þó óvinir mínir gjørðu eldsbál millum Vittemborgar og Worms, hvørs blossi að tæki uppí skýin, þá Kyldi eg samt, í Guðs nafni, øruggur géfa mig framm, viðurkénna Christum, og láta hann ráða.» Þegar hann átti nú skamt heim til Worms, lét Spalatín aðvara hann, að hann ecki skyldi hætta sér þángað, en hann svaraði strags og sagði: «þó þar sjen svo margir djoflar í Worms, sem margir eru þar þaksteinar á húsunum, þá skal eg samt fara þángað.» *)

Einusinni heima hjá sér gjørðist hann mikið ángurbitinn, en varpaði þó, midt í hjartauliguslu bæn, sinni hugsýki uppá Guð, bióþaði til síns heimafólks og sagði: «biðjið af øllu hjarta og alvøru fyrir mér vesælli mannsképnu, er plágast svo hardt af sinnis-órósemi og þúnglyndi! Sáugi það þó allt til, eptir þess miskunsama himneska føðurs góða og náðuga vilja; sé hønum — jafnvel midt í minni stærstu neyð og ángist — lof, æra og vegsemd! Amen!"

---

*) Við sama tilfelli orkti hann þann alkunna trúarhetjuliga sálm: "Ovinnanlig Borg er vor Guð" í þeim anda og með því orðalagi, sem hann finst í vorum eldri Saungbókum.

Þjáníngar og sjúkdóm líkama síns bar hann med fúsri ofurgé níngu undir Guds gudkómliga vilja. Fullur af ánægju og rósemi sagdi hann eitlsinn, þegar líf hans komst í daudans hættu: "eg fel mig þér á vald, Drottinn, þú trúfasti Gud! eg vil fúsliga deýa nær, hvar og á hvørn hátt sem þad þóknast þér, minn Gud, því þinn vilji er sá allrabesti.»

---

## Bæn þess Sannchristna.

(Eptir Gellert.)

Lagid: Heimili vort og Húsin m.

O Gud! svo vídt þín verkar nád,» vídt eins og skýin sveima;» þú krýnir oss med dýrri dád,» dvelur ei oss ad geyma.„ Drottinn! mín heill og hjálp á jørd,» heyrdú mitt kvak og bænarord;» af mínum er munni streyma!

Ei bid eg þig um góts og gull,» né gnæfandi sældar blóma;» þú mína réttu þørf uppfyll» þinni nád, mildin fróma!» ad eins gef vitsku ad þeckia þig,» þinn son Jesúm og sjálfan mig;„ samt þína' ad dyrdka dóma!

Ei bid um tign og æru hér,» eptir þó sækist vída;» gott mannord ad eins gef þú mér» ad

gjøri, ei með klæðjum níða!„ hrós mitt so æðsta' eð blyða' af trú;» hrós þøsliss, Drottinn, meðar þú;» og frómra vináttan fríða!

Ei heldur bið eg, o Guð! þig;» að aldur mér lángur vinnist;» auðmjúk í lucku, en vrugg= lig„ end mín í þrautum finnist;„ í þinni hønd mín æsi stár,» að eins géfðu við dauðans fár» mér þín misfunsemd innist!

## Ofurgéfníng undir Guðs vilja.

(Eptir sama).

Lagið. Guðs son kallar komið til.

Til hvørs er það eg þiái mig?» þolðú mín sál og hrestú þig„ þoldu, en vrvínglast eigi!» þú veitst ei hollast þér hvað er;» það veit Guð, sem þig varðveiter,„ varðveitir frómra veigi.

Talið hefir mín æsi ár,» auðnu, bølstundir; gleði, fár,» áður enn leit eg lífið;» áður mig þekti eg sjálfann,» áður enn fødur nefndi eg hann;» nam hann burt nauða kífið.

Minsti skérsur af minni neyð,» mun Guði kunnur„ skørs um leið;» já gjørvallt sier og vyrdir.» Allt hvað hann hefir meddeildt mér„» mína gjæfu það foresler;» já þyngsta þrauta byrði.

Hér lifi eg ecki heims um reit,» ad blotnist mér luckan kosta neyt;„ veraldar volsid þrytur.» Eg lifi til ad leggia minn» lucku eylífrar grund» vðllinn;» þeis ønd mín um eylífd nytur.

Allt hvad þá luckn eftir hér,» o, þú minn Gud! þad veittú mér!» þú villt þad gjarnan veita!» Hvad þeísa lucku lesta má,» þó lítist heiminum vel þar á;» burt frá mér bid þig steyta.

Kjørin þó sjúkdóms þyki þraung,» þarmed fátæktin ærid straung,» þó hatur þyngst ad líða.» Þoli eg samt og þreyi um stinn;„ þinn vilji Gud, en ecki minn» verdi! eg vil ei kvída.

Þú Herra mæddum þróttinn lér,» þínum eylífa misskun hér» vinum, því villtu gófa.» Hvad skal mér géta grandad þá," Gud ef mér dyrdist standa hjá?" treyst' eg hans trygd án efa.

---

## Hjartans Andvarp til Jesúm.

Aldrei minn Jesú eg skal gleyma» undrunar» fullum kjærleik þín!» O vei mér, ef eg gjørdi gleyma,„ hvad galdstú fyrir syndir mín!» Dyr (?)ad sé Jesú dyrdar nafn! þad dyrmæta Jesú Christi nafn!

Eg vil framkríúpa og til biðja,» elska, vegsama, hlýða þér;» veit öll mín gleði og öll mín ýðia,» alleina sé að geðjast þér!" Dagfar mitt Jesú dyrðki nafn," það dyrmæta Jesú Christi nafn!

Og þó mín stundin ýtsta aðfari,» eg héðan geing í frið og trú.» Minn Frelsari og minn Dómari,» í miskun og náð mig dæmir þú» Dyrðkað sé Jesú dyrðar nafn," það dyrmæta Jesú Christi nafn!

Kaupmannahøfn 1824.
Prentað hiá Bókþryckiara P. E. Rangel.